# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri:* MAGN. J. SKAPTASON.

I. | GIMLI, MAN. JUNI 1893. | 6.

## Fermingarræða

flutt að Gimli vorið 1893, af *Magn. J. Skaptason.*

KÆRU börn! Nú standið þið á vegamótum, sem stundum er kallað, þið eruð að stíga eitthvert hið þýðingarmesta spor í lífi ykkar. Ekki svo að skilja, að fermingarathöfnin sjálf eða fermingar-eiðurinn, eða loforð þau, sem þið nú bindist, sé þetta spor, sem ég á við. Vér skiljum svo flestir ferminguna þannig, að loforð það, sem þið ætlið að inna af hendi í dag sé ekki hið sama og eiður, því að væri það þannig, þá væri hver einasti maður, sem hér er inni í dag og til aldurs er kominn, eiðrofi orðinn og það mörgum sinnum; og þótt ykkur finnist þetta kannske mikið sagt og málið sé harla þýðingarmikið, ef litið er á það á þenna hátt, þá er þó málið engu að síður mikilvægt, stundin er engu síður og öllu fremur mikilvæg og hátignarleg fyrir ykkur sjálf og alla þá, er að ykkur standa, þó að eiðurinn undan falli, sem eiður, svarinn hinni æðstu veru. Sporið, sem ég ætla að benda ykkur á, að þið eruð nú að stíga, er það, að þið takið á herðar ykkar upp frá þessu alla ábyrgð verka ykkar, ábyrgð á hugsunum, orðum og gjörðum. Þið ætlið nú og hljótið nú, að standa eður falla á ykkar eigin verkum. Upp frá þessu verða það ykkar eigin gjörðir, sem munu dæma ykkur.

Hingað til hafið þið verið hjá foreldrum, vinum eða vandamönnum, þið hafið lítið þurft að hafa fyrir lífinu, ykkur hafa verið fengin föt og fæði, þið hafið lítil mök átt við heiminn umhverfis ykkur, þið hafið verið varin fyrir hinum kalda gusti hans, feður og mæður eður aðrir vandamenn hafa ráðið ykkur og stjórnað; það má

segja, að þið hafið að miklu leiti lifað upp á þeirra ábyrgð. En einlægt hefir stefnan verið sú, að búa ykkur undir þenna dag, undir þessa stund, er ykkur væri sleppt sjálfráðum út í lífið. Nú eigið þið, að fara að reyna það. Nú eigið þið, að fara að standa á ykkar eigin fótum. Ef að þið vilduð spyrja þá, sem eldri eru en þið, þá sem búnir eru að reyna mæðu og mótköst lífsins, ef að þið vilduð spyrja gamla manninn eða gömlu konuna einhverja, hvort þeim finnist það nú vera satt, að þetta spor ykkar væri þýðingarmikið, þá mundu þau fljótt svara: „Gættu þín barn í Guðs nafni, er þú tekur að þér ábyrgð þinna eigin verka; gleymdu því aldrei, er þú hefir einusinni gengist undir það loforð, því svo sannarlega sem Guð er til á himnum uppi, þá verður reikningsskapar af þér krafist; verkin fylgja þér, verkin dæma þig bæði hér og síðar.“ Mörg eru tárin, mörg eru andvörpin, sem þau optlega kosta verkin, sem vér fremjum og orðin, sem vér tölum. Optlega óskum vér þess árum saman, að vér hefðum ekki gjört hitt eður þetta, en töluð orð og unnin verk verða ekki aptur tekin, þótt yfir þau megi bæta, en sú bót kostar optlega bæði blóð og tár, og opt er það svo, að fyrir manna sjónum er ómögulegt, alls ómögulegt að bæta upp hið illa, sem maður hefir gjört. Allt til þessa hefir líf ykkar verið undirbúningstími undir þessa stund. Foreldrar og vinir hafa verið að reyna, að búa ykkur undir hana, hafa verið að fræða ykkur um það, er ykkur reið mest á að vita, hafa verið að útbúa handa ykkur leiðarstein svo að þið sæjuð veginn, sem þið eigið að ganga. Þau hafa frætt ykkur um himnaföðurinn og veginn til hans, um guðsríki í ykkur sjálfum, um Krist og réttlætið og kærleikann. Hversu hafið þið nú veitt því athygli? Hvernig ætlið þið nú að nota þessa fræðslu? Eða ætlið þið, að nú sé nóg búið að læra, nú byrji tími starfsins og framkvæmdanna, gleðinnar og skemmtananna? Ef þið hafið ætlað það, þá er illa farið. Ef þið ætlið, að þið séuð búin að fræðast nóg um réttlætið og kærleikann og skyldur ykkar við Guð og menn, þá væri sannarlega betra, að þið stæðuð ekki hér á þessari stundu. Það sem af er, það er að eins undirbúningur, alla ykkar æfi eigi þið að læra, að tigna Guð og elska mennina, alla ykkar æfi eigið þið að verja því, eða framkvæma það í lífinu, sem þið lærið; alla ykkar æfi eigið þið, að reyna að fullkomna ykkur í öllu góðu; alla ykkar æfi eigið þið, að stríða við hið ófullkomna eðli í ykkur sjálfum, við bresti ykkar og spillingu; og þetta stríð heldur áfram meðan æfin endist, aldrei verður hlé á því, aldrei megið þið gefa upp þessa baráttu. Þó að þið kannske sigrið um stund, þá megið

þið ekki ætla, að þar með sé allt búið, því einlægt veltur lífið áfram, einlægt rís upp ein alda freistinganna, þegar önnur fellur; syndin, breiskleikinn liggur æ sem þröskuldur við fætur ykkar og ógnar ykkur með falli, en í hvort skipti, sem þið vinnið sigur, vinnið sigur yfir ykkur sjálfum og ykkar eigin ófullkomnleika, þá verður baráttan léttari á eptir.

Ég minntist á syndina, þið hafið verið börn og eruð það raunar enn þá, en í því trausti fylgja nú foreldrar og vinir ykkur hingað, að þið séuð farin að þekkja greinarmun góðs og ills. Þið eruð farin að smakka á eplinu af skilningstrénu góðs og ills. Barnið, óvitinn, gjörir optlega það, sem er saknæmt, það, sem er ljótt og illt, það, sem er synd, en þó syndgar það eigi af því, að það hefir eigi vit á, að það sé synd, sem það er að gjöra. Það hefir eigi vit á því, að það sé að fremja neitt illt. Eplið er þekkingin, þið hafið bragðað á því meira og minna, og eins og sagt er um Adam og Evu, að þau færu að syndga, er þau brögðuðu á þessu epli, eins er um ykkur, að nú, er þið hafið vit á að greina rétt frá röngu, þá kemur ábyrgðin og þá kemur syndin, þegar brotið er á móti betri vitund.

Nú vil ég biðja ykkur kæru börn, að vera minnug þess, er þið hafið numið, að láta eigi úr huga falla þær áminningar og aðvaranir, sem foreldrar og vinir hafa gefið ykkur. Því að eins verða þær ykkur til góðs, að þær hafi áhrif á líf ykkar og breytni. Optlega hafa foreldrar ykkar heitt og innilega biðið Guð, að annast ykkur, að leiða ykkur sér við hönd, að stýra göngu ykkar á hinum hálu brautum lífsins, að gæta ykkar við freistingum og falli, að líkna ykkur og leggja eigi á ykkur harðan dóm, verið minnug þess og gleymið eigi ást þeirra, er hefir knúð fram beiðni þessa, en minnist um leið hins, að þið sjálf með ykkar eigin verkum kallið eigi yfir ykkur harðan dóm, því, ef að þið gjörið það, þá ónýtið þið og að engu gjörið aðvaranir, bænir og áminningar ástvina ykkar. Ástvinir ykkar og frændendur hafa sagt ykkur frá föðurnum á himnum, sem elskaði ykkur öll börnin sín með meiri og helgari elsku, en nokkur jarðnesk móðir getur elskað barnið sitt. Þið eruð öll hans synir og dætur, þið eigið að skoða hann, sem ykkar elskulegan föður, þið eigið að líta upp til hans með lotningu og kærleika, og þið eigið að keppa eptir, að komast sem næst honum. það ætti að vera ykkur jafn eðlilegt, eins og barninu unga að keppa í fang ástkærar móður. Ykkur hefir verið sagt frá Kristi. Minnist hans og kenninga hans og lífernis hans og kærleika hans. Kristur sýnir

ykkur leiðína til Guðs ykkar föður á himnum, hann segir ykkur, hvaða samband sé á milli ykkar og hans, hann segir ykkur frá Guðs ríki og hvar það sé að finna. Hann segir ykkur hvernig þið eigið að tilbiðja Guð og hvernig þið eigið að verða honum velþóknanleg. Minnist þess að fylgja nú hans kenningu og dæmi. Kristur segir ykkur: að Guðsríki sé eigi neinn sérstakur staður, hvorki á himnum uppi né jörðu niðri, heldur sé það hið innra ástand mannlegrar sálar, 'Guðs ríki er hið innra í yður' segir hann. Þegar hjörtu ykkar eru hrein, þegar þið elskið bæði Guð og mennina eins eg Kristur hefir sagt ykkur, þegar þið ljáið rúm í hjörtum ykkar öllum góðum og veglegum hugsunum, en hryndið burtu hinum óhreinu öndum, sem eigi eru annað, en vondar hugsanir og fýsnir. Þegar þið leitið sannleikans í hverju einu og leitist við, að lifa honum samkvæmt, þá eru hjörtu ykkar hrein og þá er Guðs ríkið einmitt hið innra í sjálfum ykkur. Þið þurfið því eigi að fara til fjarlægra hnatta eða heima, þið þurfið eigi að deyja eður skilja við líkama þennan, til þess að finna Guðs ríki, þið þurfið eigi að leita annarstaðar, en í ykkar eigin hjarta, því þar er það, og þar *aðeins* getið þið fundið það.

Kristur sagði oss og ykkur frá föðurnum á hæðum, hvernig þið væruð synir hans og dætur, eðli af hans eðli, partur af hans veru. Þið skuluð því eigi ætla, að óendanlegur geymur sé á milli ykkar og Guðs, því í honum lifið, hrærist og eruð þið. Hann er ykkur jafnan nálægur með sínum kærleika, og með sinni hjálp, ef þið eigi viljið hrinda honum frá ykkur; en það gjörið þið í hvert skipti, sem þið hneygist að hinu illa, í hvert skipti, sem hinir illu andar eður hinar vondu hugsanir fá vald yfir ykkur; því það get ég sagt ykkur, að kemur mjög opt fyrir. Vér getum séð það dags daglega, ef vér gætum að því, hvernig andar þessir fá vald yfir mönnum og gjöra aðskilnað milli þeirra og Guðs. Með því að gjöra Guðs verk, þá verðið þið honum velþóknanleg annars eigi, því það megið þið vita, að hinni heilögu og hátignarfullu veru, sem vér köllum Guð getur ómögulega geðjast það, sem er ljótt svívirðilegt og vont.

Kristur sagði oss, að það væri eigi hin sanna tilbeiðsla á Guði, að tigna hann með útvortis serimonium á Farisea-vísu eða með neinu útvortis látæði öðru, en breytni manna. Guð ætti að tilbiðjast í anda og sannleika, ef að hjartað er eigi með í tilbeiðslunni, þá er tilbeiðslan ónýt. Þið dýrkið Guð með því, að elska mennina þið hlýðið boðum hans með því sama. Kristur sagði við

Lögvitringinn: „Elska skaltu drottinn Guð þinn af öllu hjarta og af allri sálu þinni og af öllu hugskoti þínu. Þetta er hið fyrsta og æðsta boðorð, og þessu líkt er hitt; elska skaltu náungann eins og sjálfan þig, í þessum tveimur boðorðum er innifalið allt lögmálið og spámennirnir.“ Kristur var svo fráhverfur hinni gömlu bókstafs og helgisiðadýrkun Gyðinga, að hann breytti og endurbætti eitt og annað í Móseslögum. Fylgið Kristi kæru börn og takið ykkur hann til fyrirmyndar og eptirdæmis. Minnist þess hvernig hann sagði, að þið ættuð að breyta við aðra: „Allt sem þér þér viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð þér og þeim gjöra.“ Ef þið fylgið því í lífi ykkar, þá gjörið þið öðrum eigi órétt, þá særið þið eigi annara hjörtu, þá haldið þið eigi lýginni á lopti, þá spillið þið eigi friðinum meðal nágranna ykkar eður vina, þá getið þið lifað í friði, eindrægni og bróðurlegum kærleika við aðra, að minnsta kosti vitið þið það þá með sjálfum ykkur, að þið eruð eigi völd að því, þótt illa eður aflaga fari.

Og umfram allt verðið þið að hugsa til þess og muna vel eptir því, að hafa aldrei, að búa ykkur aldrei til lágar eður óvirðulegar hugmyndir um Guð. Útrýmið úr hjörtum ykkar öllum lágum hugmyndum um Guð, látið aldrei niðurlægjandi orð um himnaföðurinn koma í huga eða á varir ykkar. Það hefir merkur maður sagt, að hann þyrfti eigi annað, en að þekkja hugmyndir manns eins um Guð, þá þekkti hann einnig þenna hinn sama mann. Það er engin hætta á því, að þið hafið nokkurn tíma of háar eða veglegar hugmyndir um skaparann. Hann er allt hið besta, veglegasta, háleitasta, hreinasta, ráttlátasta og kærleiksfyllsta, sem þið getið hugsað ykkur. Og því hærri og veglegri hugmyndir, sem þið hafið um hann, því léttara verður ykkur að nálgast hann, eins og þið hinsvegar eigið örðugra og örðugra með það og fjarlægist hann einlægt meir og meir, eptir því, sem þið hugsið ykkur hann ófullkomnari. Hefjið ykkur því til hans, svo hátt sem þið getið, í kærleikanum, dygðunum, sannleikanum og þekkingunni, einlægt getið þið haldið áfram að fullkomnast um eilífar tíðir; ykkur kemur eigi til hugar, engum okkar kemur til hugar, hvað oss muni fyrirbúið að lokum, en að það sé óendanlega miklu hærra og veglegra enn almennt hefir verið ætlað hingað til, það er mín trú. Lífið er ekki úti við dauðann; það stekkur enginn yfir í eilífa sælu eða eilífar kvalir við dauða sinn. Það væri á móti öllu viti og skynsemi. En áfram einlægt hærra og hærra er leiðin, sem liggur fyrir oss. Ég vona menn ætli nú ekki að ég sé að halda fram eilífri útskúfun, þótt ég bæti

því við, að vondu verkin og vondu hugsanirnar eður hinir vondu andar, sem stundum grípa oss, dragi okkur einlægt neðar og neðar og heimti hlífðarlaust endurgjald fyrir öll vor fólsku og glópskuverk. Endurgjaldið, hegningin kemur yfir oss, þar á er enginn minnsti efi, og að hún er sár og bitur, sem bruna kvalir, það getum vér því betur séð, sem vér optlega grátum brennandi tárum yfir illsku vorri hér, þar sem vor eigin ófullkomnun og synd dregur þó alla beiskjuna úr þessari tilfinningu. En aðalstefnan er einlægt upp á við, gegnum hörmung og þraut, gegnum gleði eða tár, fyrir sjálfs afneitun og sigur yfir vorri eigin ófullkomnun.

Kæru börn! hingað, að þessum merkjasteini hafa nú foreldrar og aðrir vinir fylgt ykkur á lífsleið ykkar; með viðkvæmum hjörtum skilja þeir nú við ykkur, árna ykkur nú allra heilla, og biðja af hjarta hinn alvalda föður og skapara himins og jarðar, að vera með ykkur á leiðinni, að halda hendi sinni yfir ykkur, að gæða anda ykkar öllum góðum og göfugum hugsunum. Gangið fram kæru börn í elskunni og traustinu til hans, og hafið það ætíð hugfast, að hans alskyggna auga sér hvert eitt verk ykkar, hverja eina huldustu hugsun ykkar, gangið ætíð fram svo í líferni ykkar, sem þið gengjuð frammi fyrir Guði. Takið Jesúm Krist ykkur til fyrirmyndar. Leitið Guðs í bæninni, talið við hann eins og þá börn tala við elskaða foreldra, hugsið sí og æ til þess, að þið eruð hans börn, að ekkert getur slitið ykkur frá honum, ef þið leitið hans í anda og sannleika, ef þið vinnið hans verk með því, að iðka kærleikann og efla sannleikann. Hlúið sem mest að guðsríkinu í ykkur sjálfum.

Nú kveðjum vér ykkur og óskum ykkur til heilla á lífsleiðinni. Guð á himninum annist ykkur og gæti ykkar. Hann leiði og styrki oss alla og láti oss alla sjá leiðina til sín. Fylgjum Kristi svo finnum vér Guð. Í Jesú nafni. Amen.

# Hvað gerir menn sæla?

Hvorki er það auður né veraldar völd
ei virðing né prakt nokkurs-konar,
sem frið stráir himneskum fjörsins á kvöld
með fullnægju sérhverrar vonar.

Nei, það eru hjörtu svo hugrökk og sterk,
sem hata 'ið falska og lága;
en helga sitt líf til að vinna þau verk,
sem verkar hið göfga og háa.

Allt lífið er reynsla, þess reynslan ber vott,
svo reyndu að stríða og vinna;
þó stórt þú ei vinnir sé verk þitt trútt, gott,
það vert er meir þúsunda hinna.

M. J. Benedictsson.

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Hin fyrsta hugmynd um Guð, sem vér finnum hjá Gyðingum (og sú hugmynd hélst við hjá þjóðinni allt fram um herleiðinguna eptir 600 f. Kr.) er sú, að Guð þeirra, Jehóva, var *ekki* hinn *eini* Guð, heldur var hann einn af mörgum guðum, en æðri, en allir aðrir guðir. Þannið segir í 2. Mósesbók 15, 11.: „Drottinn! hver er, sem þú, meðal guðanna?“ og í 1. Konungab. 8, 23.: „Enginn guð er sem þú, á himninum yfir, eða jörðunni undir.“ Þegar Móses fer að boði drottins til Faraós og heimtar það, að hann sleppi Ísraelsmönnum, þá kallar hann eigi Jehóva hinn *eina* guð í alheiminum, heldur „Guð Hebreanna.“ Þegar hin tíu laga-boðorð eru rituð á Sinai, þá er Guð ekki látinn segja: „Eg em hinn einasti guð,

enginn er guð, nema eg" heldur þetta: „Eg em drottinn, *þinn* guð, þú skalt eigi hafa *aðra* guði, en mig." Og bendir það á, að Gyðingar fundu eigi að því, þótt aðrar þjóðir hefðu aðra guði og dýrkuðu þá; hitt þótti þeim óhæfa að þeir, Gyðingar, skyldu dýrka aðra Guði, en Jehóva, guð þjóðar sinnar. Hvað eptir annað, um fleiri hundruð ára, sjáum vér, að Gyðingar „falla til skurðgoðadýrkunar", en þetta fráfall þeirra var þó eigi talið *guðleysi*, sem vissulega hefði verið, ef að Jehóva hefði verið talinn hinn *eini* sann i Guð. Það er talið fráfall frá guðinum, sem leiddi þá burt úr Egyptalandi og hjálpaði þeim á ýmsan hátt, og þeir þessvegna voru skuldbundnir að tilbiðja, rétt eins og þeir væru að gjalda gamla skuld.

Til þess að sjá, hvernig guðshugmynd Gyðinga breytist og fullkomnast, skulum vér nú taka nokkur dæmi. Fyrst skulum vér taka dæmi, er sýna hugmynd um líkamlegan og svo aptur um ólíkamlegan og andlegan Guð.

Og, er Móses kom að tjaldinu, þá seig skýstólpinn niður og nam staðar við tjalddyrnar og drottinn talaði við Móses augliti til auglitis, eins og maður talar við mann.

2. bók Móses 33, 9–11.

Mundi Guð í raun og veru búa á jörðinni? Sjá! himininn og allra himnanna himnar taka þig ekki, hvað þá þetta hús, sem eg hefi bygt. 1. Kon. 8, 27.

Og enn sagði drottinn: Sjá! hér er staður hjá mér; þú skalt standa upp á berginu, en þegar mín dýrð fer fram hjá, vil eg láta þig standa í bregskorunni, og mun eg byrgja þig með hendi minni, uns eg em kominn fram hjá; en þegar eg tek mína hönd frá, þá muntu sjá á bak mér, en mitt auglit verður ekki séð.

2. bók Mósesar 33, 21—23.

Hvert get eg farið frá þínum Anda? hvert flúið frá þínu augliti? Fari eg upp í himininn, þá ertu þar; gjöri eg undirdjúpin að mínu legurúmi, þá ertu þar Tæki eg vængi morgunsroðans og byggi við hið yzta haf,einnig þar mundi þín hönd leiða mig og þín hægri hönd halda mér föstum. Sálm. 139, 7—10.

Þá getum vér og fært til dæmi upp á siðferðislega þroskun guðshugmyndarinnar. Í fyrstu hefir hún verið fremur lág en smátt og smátt hreinsast.

„Og sjá! Drottinn hefir nú

Satt er Drottins orð og allt

lagt lyga anda í munn þessara þinna spámanna.

2. Kon. 18, 22.

hans verk trúfast. Sálm. 33, 4.

Og Drottinn sagði: Eg skal láta þessa þjóð hafa það lán hjá Egypskum, að þá þér farið í burt, skuluð þér eigi tómhentir fara, því hver kona skal fá að láni hjá grannkonu sinni og sambýliskonu silfurker, gullker og klæði og það sama skuluð þér láta sonu yðar og dætur í burtu bera. — Þetta gjörðu þeir Egyptska viðskila við.

2. bók Mósesar 3, 21—22; 11, 2—3; 12, 35—36.

Lygavarir eru Drottni andstygð, en þeir, sem sannleik yðka eru honum velþóknan.

Orðskv. 12, 22.

Drottinn! hver mun setjast í þína tjaldbúð? hver mun búa á þínu heilaga fjalli? Sá,sem fram gengur flekklaus, gjörir rétt og talar sannleikann af hjarta.

Sálm. 15, 1—2.

Næst skulun vér taka til fórnir og brennifórnir og sýna hvernig Gyðingar hugsuðu sér að þær væru Guði velþóknanlegar og aptur á móti aðra staði er sýna að Guði hefir enga velþóknun á fórnargjörðum. Prestar Gyðinga héldu mikið upp á fórnir en spámennirnir eigi, enda hefir það jafnan verið svo að prestar hafa unnað bókstaf og kreddum, en spámenn eða skáld anda og frelsi.

Nói bygði þá Drottni altari og tók af öllum hreinum dýrum og hreinum fuglum og offraði brenni fórn á altarinu. Og Drottinn kenndi þægilegan ilm og sagði í hjarta sínu: eg vil eigi framar bölva jörðinni aptur fyrir mannins skuld. 1. bók Móses 8, 20—16.

Þú hefir enga vild á fórnum, annars mundi eg greiða þér þær; á brennifórn hefir þú eigi velþóknan.

Sálm. 51, 16.

Sem brennifórn Drottni til sæts ilms skuluð þér þá færa tvo unga uxa, einn hrút, 7 ársgömul unglömb. 4. b. Móses 28, 27.

Hvar til skulu yðar mörgu fórnir? Eg em leiður á brennifórnum hrútanna og feiti alifjársins. Eg hefi enga lysting á blóði uxanna, lambanna og hafr anna. Esaj. 1, 11.

Skuluð þér þá færa brennifórn, eldfórn Drottni til sæts ilms, 13 unga uxa 2 hrúta og 14 ársgömul

Með hvað skal eg koma fram fyrir Drottinn? Hefir Drottinn þóknun á 1000 hrútum,á 10,000

hrútlömb. 4. b. Móses 29, 13. viðsmjörs lækjum?—Hvað heimtar Drottinn annað af þér en að gjöra rétt, ástunda kærleika og framganga í lítillæti fyrir þínum Guði. Mikka 6, 6—8.

Þegar aptur í nýja Testam. kemur verður hugmyndin enn göfugri og Kristur segir: Guð er andi og þeir, sem tilbiðja hann, eiga að tilbiðja hann í anda og sannleika; hann kallar Guð: Föður vorn sem sé á himnum, o. s. frv.

Þá er það og athugavert, að trúin á *annað líf* kemur eigi fyrir í fyrri helmingi gamla Testam. Í Prédikara Salómons segir: „að hinir dauðu viti ekkert og þeir eiga engin laun framar." (Orðskv. 9, 5.) og „það, sem fram kemur við mannanna börn, það kemur og fram við fénaðinn, hvorttveggja hefir sömu forlög; eins og fénaðurinn deyr, þannig deyr og maðurinn og allt hefir eins anda; og maðurinn hefir enga yfirburði yfir fénaðinn, því það er allt hégómi." (Orðskv. 3, 4.)

Þegar loks ódauðleikahugmyndin kemur fram, þá er trúin mjög myrk og óljós og ber þó þess að gæta, að fyrst og fremst Egyptar og svo Persar höfðu sterka trú á ódauðleika sálarinnar, og í herleiðingunni 600—536 f. Kr. hefir ódauðleikahugmynd Gyðinga fengið nýtt lífsafl hjá Persum, ef hún eigi algjörlega er þaðan komin; í nýja Testam. er hún orðin almenn og skín út úr hverri opnu þess.

Þá er trúin á *djöful og helvíti.* Um þá trú er það að segja, að hún finnst hvergi í þeim bókum ritningarinnar, sem ritaðar hafa verið fyrir herleiðinguna, eða þann tíma, er Gyðingar komu úr henni, um 536 f. Kr. Eru því allar líkur til, að Gyðingar hafi haft kenningar þessar frá Persum, sem þeir voru hjá um þenna nærfelt 70 ára tíma, er þeir voru þar eystra. Sjáum vér þar hvernig kenningar þær og hugmyndir, er trúna snerta smátt og smátt eru að breytast. Vanalega er breytingin til hins betra, en þó eigi ætíð, eins og sjá má á þessu, því þetta er apturför í hugmynd þjóðarinnar um Guð. Hver sem því fer að lesa bókmenntasögu eða einhverja sögu þjóðanna, er nær yfir ein 1000 ár, tælir sjálfan sig stórlega, ef hann býst við, að finna þar hinar sömu kenningar hinar sömu hugmyndir frá upphafi til enda. Eptir hlutarins eðli er það ómögulegt og óhugsandi, að finna þar hinar sömu hugmyndir um Guð og manninn, hið daglega líf og hið ókomna (*tempora mutantur nosque mutamur in illis,* tímarnir breytast og vér breytumst með þeim.) Það væri rétt

eins og vér færum að lesa sögu Rómverja, og byggjumst við, að finna þar hinar sömu hugmyndir um stjórnarskipun á dögum konunganna, þjóðveldisins og keisaranna, eða að ætla sér, að finna hinn sama hugsunarhátt ríkjandi í Danmörku og á Íslandi nú og fyrir 1000 árum í trúmálum, heimspeki, stjórnfræði og félagslífi. Slíkt er alvag óhugsandi.

*Gildi bókanna.* Þá kemur fram spurnig sú, hvort allar bækr ritningarinnar hafi jafnt gildi, og við nákvæma athugun getur hver maður séð, að það getur eigi verið. Eða hvernig ættu bækur, sem hin fyrsta og önnur Mósesbók, er bygðar eru á þjóðsögum fornum og munnmælasögum, að geta haft jafnt gildi og aðrar bækur skrifað ar á sögutímanum, þar sem sanna má hvern viðburð með samanburði við aðrar sögur? Geta menn hugsað sér aðrar eins bækur og Kronikubækurnar, Konungabækurnar, Dómarabækurnar eða Jósúabókina, fullar af blóðugum styrjöldum og manndrápum, jafngóðar og gildar, sem æfisögu Jesú Krists. Hvort geta menn jafnað saman Mansöngvum Salómons, eintómu ástakvæði, við bækur sem Jobsbók og Esajas. En nú ber þess að gæta, að til eru eða til hafa verið enn *fleiri bækur ritningarinnar* en þær, sem vér þekkjum í hinu svokallaða gamla Testam. Ritningin sjálf getur um einar 15 þess konar bækur, sem nú eru allar *týndar*, og eru þær þessar:

1. Enoks spádómsbók, sjá Júdasar pistil 14, 15.
2. Bókin um bardaga Drottins, sjá 4. Mós. 21, 14.
3. Bók hins réttláta, eða hreinskilna, (Jasher), sjá Jósúa 10, 13. og 2. Sam. 1, 18.
4. Bók Samúels um háttu konungdómsins, sjá 1. Sam. 10, 25.
5. Bók Nathans spámanns, og Gads sjáandans, sjá 1. Kron. 29, 22.
6. Salómons sögubók, sjá 1. Kron. 11, 41.

Hinar 9 eru þessar:

Dæmisögur Salómons, ljóð og ritgjörðir um náttúrufræði.
Bók Seraiah.
Bók Jehú.
Bók Isaiah um Uzziah konung.
Orð sjáandanna.
Harmagrátur yfir Uzziah konungi.
Bók Jeremiasar, er Jehudi brenndi.
Kronikubækur Júdakonunga.
Kronikubækur Ísraelskonunga.

Er minnst á allar þessar bækur í ritningunni, en nú eru þær

týndar, eða að minnsta kosti veit enginn maður hvar þær eru niður komnar.

Þá eru hinar 14 apokryfisku (óegta, eiginlega þær sem á að fela) bækur, sem enn eru til, og hin rómversk kaþólska kirkja telur til gamla Testamentisins, enn sem prótistantar allir neita, að teljast eigi í tölu hinna helgu bóka.

Þegar til nýja Testamentisins kemur, þá er til enn fjöldi bréfa, guðspjalla og gjörningabóka postulanna, sem hinir gömlu kirkjufeður, klerkarnir og kirkjuþingin hafa neitað, að væru innblásnar af heilögum anda, og eru þetta hinar helstu:

Barnabasar pistill, (til á grískn).
1. Klemens pistill til Korinþumanna, (til á grísku).
2. Klemens pistill til Korinþumanna. (til á grísku).
Niðurför Krists til helvítis, (til á grísku og latínu).
Reglur postulanna, (til á grísku, eþiopisku og koptisku).
Hin 1, 2, og 3. bók Hermasar, (til á grísku og latínu).
Bréf Ignatiusar til Efesusmanna, (til á grísku og latínu).
Barndómsguðspjall Krists, (til á arabisku og latínu).
Saga Jóseps af Arimaþíu, (til á grísku).
Guðspjallið um fæðingu Maríu, (til á latínu).
Gjörningar Pílatusar, (til á grísku og latínu).

Alls eru þessar bækur 41, sem nú eru til, en þar við bætist enn heill hópur af 6 8 bókum postulanna, sem nú eru *týndar*, en ýmsir rithöfundar hinna 4 fyrstu alda kristninnar hafa getið um, að hafi verið til á þeirra dögum.

Þar eru meðal annars:

Gjörningar Andrésar-
Guðspjall hinna 12 postula.
Guðspjall Bartólómeusar.
Bréf Krists til þeirra Péturs og Páls,
Gjörningar Jóhannesar.
Hebreaguðspjallið. o. fl. o. fl.

(Framhald næst.)

# Athuganir við sköpunarsöguna.

Framhald.

## VI.

### *SAMDRÁTTUR EFNA OG KRYSTALLAR.*

Jafnframt því, að þokan þéttist og hnettirnir mynduðust, kom og fram nýtt aðdráttarafl —samdráttur efna— (v. skyldleiki efna, chemical affinity). Þyngdarlögmálið þrýstir efnunum saman í hnetti, en efna-samdrátturinn sameinir frumagnirnar og framleiðir á þann hátt nýja og nýja efnablöndun.

Ekki geta menn neitt sagt um það, hvað hið upphaflega frumefni sólkerfisins hafi verið. Máske það hafi verið eitt af hinum svokölluðu „*einföldu efnum*" (efnum, sem ekki er hægt að skipta í aðgreind efni) eða önnur enn þá einfaldari efni, sem hin séu sambland af. Ef vér lítum til þess, hversu einfalt efni vatnsefnið (hydrogen) er, hið léttasta efni, er menn þekkja, ef vér lítum til þess, hversu mikið var af því á jörðinni í upphafi, að það liggur enn utan um sólina, sem kápa, mörg þúsund mílur á þykkt, að litmælirinn (spectroscope) sýnir ógrynni af því í stjörnum og stjörnu-þokum, þá ætla margir vísindamenn, að vatnsefnið sé frumefni það, er hin önnur frumefni hafi myndast af. Aðrir ætla, að vatnsefnið sjálft sé myndað af enn frumlegra efni, ef til vill líku því hinu létta, ókunna loptefni, er virðist liggja langar leiðir út frá hydrogen belti sólar. Þetta eru auðvitað getgátur, en víst er það, að mikið er af hydrogen í hinum nýmynduðu heimum. Önnur efni koma og fram á hnöttunum, sem eru að myndast. Nitrogen hafa menn fundið í mörgum stjörnum og stjörnuþokum, en sólin hefir mörg af frumefnum vorum og nokkra af málmum jarðarinnar í loptkenndu ásigkomulagi og sýnir oss þannig, hvernig hið efnislega (chemiska) ástand jarðar einu sinni hafi verið.

Þegar jörðin kólnaði, drógust hin ýmsu efni saman í nýja efnasamblöndun. Einkum var það súrefnið (oxygen), er sameinaði sig við flest öll önnur efni, er það gráðugt mjög og mikið til af því. Af blöndun þessari koma sýrur og sölt (oxides og acids) og, er það blandaðist aptur og aptur, hvað við annað, kom fram efnis-

samblöndun sú, er klettarnir og fjöllin mynduðust af. Þetta oxygen sameinaðist og hydrogen hinu mikla og myndaði „vötnin“ í sögunni, eigi þó í þeirri mynd, sem sögu höfundurinn hugsaði sér þau í upphafi, því að lengi fram eptir voru þau öll í gufumynd í hinum ofsalega hita hins unga hnattar.

Engum manni er unnt, að gjöra sér hugmynd um hin voðalegu öfl er hristu hina gufuþrungnu jörð, á meðan efnin voru að blandast saman. Ef efnafræðingur blandar saman oxygen og hydrogen til þess að framleiða fáeina dropa af vatni, þá lýstur efnum þeim saman með svo miklum gný, að verkstofan hristist. En hvílíkir voðahvellir hafa það eigi verið, er efni þessi blönduðust saman og framleiddu höfin á jörðinni. Og þó kunna umbrotin að hafa verið enn þá ógurlegri við ýmsar aðrar efnasamsteypur. Vér þurfum eigi annað, en að líta á sólina eins og hún er nú, til þess að fá hugmynd um þau ógnaveður, er af þessum og þvílíkum orsökum ganga yfir hnettina í myndun þeirra. Á sólinni sjást blettir, er stjörnufræðingarnir segja oss, að séu gryfjur, hver fyrir sig miklu meiri ummáls, en jörðin, en eru ýmist grafnar út eða sléttað yfir þær, á fáum dögum. Í ofsaveðrunum, sem mynda þessar lautir, geta menn séð efni sólarinnar stundum sendast hundrað þúsund mílur út í geyminn með meiri en hundrað mílna ferð á sekúndunni og með svo miklu afli, að það færi fjórar ferðir í kringum jörð vora, áður en það næmi staðar. Fellibyljir á jörðinni fara sjaldan meira, en hundrað mílur á klukkustundinni, en vísindamennirnir segja oss, að byljirnir í ljóshafi (chromosphere) sólar fari stundum með svo miklum hraða, sem fellibylur færi á hálfri mínútu frá Laurence-fljóti og suður að Mexico-flóa. Höfundur hinnar gömlu sköpunarsögu hefir máske haft hafvindana í huga, er hann sagði: „og andi Guðs svam yfir vötnunum“, en hversu miklu máttugri anda sjáum vér eigi hreifast á þessu ógna djúpi sköpunarinnar.

Eptir því, sem jarðarhnötturinn kólnaði og drógst saman, þéttist gufan og varð að rennandi efni, en hið innra var jörðin sjóðandi haf af bráðnum efnum; en snúningur hnattarins þandi jörðina út um miðjuna og heldur hún því lagi enn. Samdrátturinn og kælingin hélt áfram, hin fljótandi efni hörðnuðu, og af kuldanum varð jörðin föst og þétt á yfirborðinu, og þó enn þéttari innst við miðdepilinn fyrir þrýstinguna, að því, er margir jarðfræðingar ætla. En jafnframt því, að jörðin þéttist þannig, kom nýtt aðdráttarafl til sögunnar, er framleiddi enn undraverðari sköpun. Þyngdarlögmálið réði hnattmyndun heimanna, efna-samdrátturinn blandaði saman

smáögnunum, en þetta hið nýja samdráttarafl raðaði hinum ýmsu ögnum saman með aðdáanlegri samræmi og fegurð og myndaði *krystallana*.

Til þess að geta séð þessa miklu krystalla-sköpun í allri sinni fegurð og fjölbreytni, þá þurfum vér eigi annað, en að skoða hinar elstu grjóttegundir. Vér getum meira að segja séð hana, ef vér tökum hnefafylli vora af sandi. Þar í sjáum vér, kvarts-gimsteinana ýmist alveg gagnsæja eða þá með hinni smágjörðustu blöndun hins rósrauða og fjólubláa litar. Eru þeir enn þá undrafagrir, þó að sjórinn hafi velkt þá í sandinum um þúsundir ára. Getur steinafræðingurinn rakið spor þessarar gömlu krystallasköpunar, sem er svo ljómandi fögur, en leyndardóm hennar getur hann aldrei ráðið. Hvað sem vísindamaðurinn segir, þá mun skáldið ætíð sjá verknað hins guðdómlega anda fegurðarinnar, er hann leggur á jörðina þetta granit-stólpagólf mílum saman á þykkt, eða, er hann lítur hina undraverðu fjölbreytni og skraut litanna og kristallamyndanna, svo reglulegt, en þó svo leyndardómsfullt.

Öll þessi sköpun heldur einlægt áfram. Frumefnin eru daglega að blandast aptur og aptur og framleiða önnur efni. Í hvert skipti sem vér kveikum eld. og í hvert skipti sem vér drögum andann blandast oxygen (súrefni) við carbon (kolefni) og myndar carbonic acid (kolsýru) sem er eitt aðalefnið í samsetningu kalksteinanna og marmarans. Í hvert skipti, sem vér kveikjum á lampa, þá blandast súrefni loptsins saman við vatnsefni (hydrogen) olíunnar, og framleiðir í sameiningu vatnið, er stundum sést safnast saman á lampaglösum í smágjörvu gufulíki. Í sumarskúrunum sjáum vér vatnsgufuna þéttast saman og mynda regndropana, er stundum hardna við kuldann og verða að hagli. Á hverjum frostpolli sjáum vér krystallagólf yfir vatninu. Í hverri frostrós á gluggarúðunni, í hverju snjókorni vetrarins sjáum vér skapara heimanna raða ögnunum saman og mynda úr þeim undurfagra heild. Ætíð og allstaðar er hinn skapandi andi sí-starfandi að blöndun efna og myndun krystalla.

---

(Framhald næst.)

---

Sem svar upp á svívirðingar-áhlaup Jónasar Stefánssonar á mig í Lögberg 31. mai 1893 vil ég benda mönnum á framanprentaða fermingarræðu. Af henni geta menn séð, hvort ég sé sá djöfull í mannsmynd, sem grein Jónasar bendir á. Þar og í „Dagsbrún" geta menn séð. hvort ég fer í felur með skoðanir mínar. Ræðan er fjarri því að vera lúþersk, og svo mun „Dagsbrún„ þykja. Ég hefi lengi búist við því, og bjóst við

því þegar í fyrstu, er ég byrjaði á stefnu þessari, að tilraunir yrðu gjörðar, að svipta mig æru og atvinnu, en ég œtlaði mér að reyna, að bera það. Þeir, sem hafa þekkt mig lengst hér vestra, geta best borið um háttalag mitt, og mun að líkindnm gjöra það; án þess ég leggi þeim orð í munn.

*M. J. Skaptason.*

---

——Menn geta búist sinni eigin hégómagirnd, en sá fatnaður er svo gagnsær að hver einasti maður sér í gegn um hann

——Vinaleg orð eru blóm þau, er hver og einn getur látið spretta þótt hann eigi ekki ferhyrningsfet af landi.

——Ef vér ekki hefðum neina galla þá mundum vér eigi hafa jafnmikla skemmtun af því að finna þá hjá öðrum.

——Einkunn manns eins finna menn með því að meta verk hans en eigi orð hans. [„Our Soc. Journal"

---

—*LEIÐRÉTTING:* Í síðasta númeri af „Dagsbrún" bls. 68. 11. l. að neðan hefir mis-prentast *Register of Israel* fyrir *Religion of Israel.*

---

*BORGAÐ hafa „DAGSBRÚN" I. ár.*

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Páll Magnússon | Selkirk, | $1,oo. | Gísli Árnason | Winnipeg, | $1.oo |
| Guðm. Finnsson | „ | 1,oo. | Jósef Skaptason | „ | 1.oo |
| Mrs. Ingib. S. Jónsd. | „ | o.5o. | Hiálmar Guðmundss. | „ | 1.oo |
| Þór. Þorkelsson | „ | o.5o. | Kristinn Stefánsson, | „ | 1.oo |
| B. Kristmundsson | „ | o,25. | Steíngr. Guðvarðss. | „ | 1.oo |
| Rev. Pétursson | Winnipeg, | 1,oo. | Capt. J. Helgason | „ | 1.oo |
| Kr. Hannesson | „ | 1,oo. | Sig. Bárðarson | „ | 1.oo |
| Stefán Oliver......... | „ | 1,oo. | S. J. Jóhannesson | „ | 1.oo |
| Bergrós Jónsdóttir | „ | 1,oo. | Jón Sigurðsson...... | Victoria | 1.oo |
| Kristián Jónsson | „ | 1.oo. | Jónas Samúelsson | „ | 1,oo |
| Einar Ólafsson...... | „ | 1.oo. | Þorst. H, Arngrímss. | „ | 1.oo |
| Eyólfur Eyólfsson | „ | 1.oo. | Jóh. P. Árnason......... | Gimli, | 1.oo |
| Halldór Jónsson | „ | 1.oo. | Jón Hildibrandsson | Hnausa, | 1.oo |
| Guðm. Ólafsson | „ | 1.oo. | Miss G. E. Dalmann | „ | 1.oo |

---



---

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

---

Hve nær sem kaupendur að „Dagsbrún" skipta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson.

---

☞ *G. M. Thompson, er „business manager" og féhirðir fyrir blaðið.*

---

„DAGSBRÚN" kemur út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyrir fram——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

---

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli.*